# Stutt
# Liik-Ræda,

flutt í Leirár Kirkju,
yfir Eckjunni
## Helgu Gudmundsdottur,
þann 21ta Nóvembr. 1802.

af 

Bjarna Arngrímssyni,
Sóknarpresti til Mela og Leirár í Borg-
arfjardar Sýslu.

Leirárgørdum, 1810.
Prentud, á Erfíngjanna kostnad, af Faktóri og Bók-
þryckjara G. Schagfjord.

Þegar hin mikla Guds og Kristinndómsins hetja, Postulinn Páll, lagt hafdi nidur fyrir sínum ástfólgna Timotheo, allar þær lærdóms- og lífs-reglur, er hann hentastar fann honum til upphvatníngar í því, ad reka sem verdugast Krists erindi, lyktar hann mál sitt med

a) þessi.

þessum merkis ordum, sem lesa má af hans sídára Sendibréfi til sama manns, Kap. 4, 7.: Eg hefi gódri baráttu barist. eg hefi trúnni haldid, eg hefi hlaup mitt fullkomnád, nú hédanaf er mér til handa afstódis lögd kóróna réttlætisins, sem Drottinn, hinn réttvísi dómari, mun gèfa mér á sínum tíma, þó — ecki mér einúngis, heldur jafnframt öllum þeim, sem hans tilkomu elska; og med hvílíkri hugar-rósemi og gladri von hann skrifad hafi þetta, þad bera ordin sjálf med sér; því gétur ervidis-madurinn best nærri, hinn lúni, yfirþreytti ervidis-madur, sem med súrum sveita frá morgni til qvölds, borid hefir hita og þúnga dagsins, med kappsemi, trú og dygd lokid vid á-qvedid verk sitt, med þolgædi og stödugliyndi afborid allann örduglei ka, hrundid öllum hindrununum, varid öllum kröptum til ad fá sem vandlegast af hendi leyst sína dags þjónustu, og nú loks örmagna, sárþjakadur lángar eptir hvíldinni, eptir værum, endurnærandi svefnblundi, sjer sína hvílu uppreidda, og sína laungun þegar fyllta, dags-ervidid vel útendad, launin gód og vís og hvíldina í nánd. Æ! hvad sælann mun hann ecki meta sig! edur og sjómadurinn, sem lengi hrakist hefir í bodum og brimsjó, lengi verid hefir í tvísýnunum um, hvört hann heldur vænta skyldi sér lífs, eda búast vid dauda, hvad heist fordast, hvörju qvída, hvad afráda; hann, sem eptir margfaldar útstadnar lífshættur, lángvinna vosbúd, ótal áföll, sjer sig loks farsællega frelstann frá öllu þessu, sjer fyrir sér óhulta lendingu,

fingu, hvar hann nád gétur lífi og landi, og hvílt sig og sitt brákada frelsis medal, sitt skipbrót í nádum; æ hvad fagurt mun honum ecki landid! hvad fagnadarsælt frelsid úr þessum naudum! En þó má einna heldst hértil nefna stridsmanninn, sem kappsamlega barist hefir undir sínu merki, og eptir blódríkann bardaga, eptir afstadnar lángvinnar lífshættur, sjer nú, særdur og af þreytu og mædi ad þrotum kominn, sigurinn í höndum sér, sjer óvinina á flótta, sjer loks linna þeim hvellandi heljar-skeytum, sem svo lengi skruggudu allt um kring hann, og á hvörju augnabliki ógnudu lífi hans med brádum bana; sjer nú þegar úthlutud verdlaunin, þegar tilbúinn sigurkransinn, og sig þegar krýndann vegsemd og heidri; o hvad gladur og sigrihrósandi mun hann ecki undirtaka Postulans áminnstu ord: nú hefi eg gódri baráttu barist! en — kunni erfidis- eda sjómadurinn eda stridshetjan nockud nærri ad gáta gledi þeirri og ánægju, sem gagntekid hefir Postulans sinni, er hann sá og ímyndadi sér tíma sinnar burtfarar ódum nálægjast, af því hann visi sig, eptir ýtrustu kröptum, hafa ervidad og barist undir Guds og Jesú síns Lausnara stridsmerki; hvad þá ecki sannkristinn madur, sem, vidlíkt og Postulinn, hefir góda samvitsku ad gledja sig vid, hann sem verid hefir trúr verkmadur Drottins, vís og varfærinn ferdamadur á lífsins opt uppæsta ólgusjó, árvakur og örduguur Jesú Krists stridsmadur, hvad nærri mun hann ecki farid géta hvílík unan og andans rósemi þad verid hefir, er Postulinn

fann

fann til, og hann rett sem sigrihrósandi yfirlýsir undir sína burtför, med heim ordum: nú hefi eg gódri baráttu barist, hlaup mitt fullkomnad, trúnni haldid.

Til vidlíkrar unnunarsamrar gledi af voninni hefir Þú víst fundid og fengid ad reyna, vor Framlidna! eptir øllum líkum vóru þad þessum náskyldir þánkar, sem uppfylltu þína sálu rósemi í daudanum, þá, þegar þú sást þinn ervidis- og þrauta- og strids-dag á enda kominn, hlaupid fullkomnad og þína hvíld í nánd, hverri þú þol framar fagnadir, sem þitt ervidi verid hafdi strángara, þinn vinnudagur lengri, þínar þrautir fleiri, þitt strid lángvinnara og hættulegra, er þú, sem manneskja, sem skyldurækin, góð og vøndud manneskja, eins og allir þeckiu þig, er til þín vissn í 62 ár, sem ektamaki og 9 barna módir í 24 ár, og nú sídast sem eckja og einstædíngur á 7da ár, heja þlautst á jørdunni, og þad, sem er høfud atridid, þádir vel og trúlega til enda, til þess þú, þann 16da þessa yfirstandandi Nóvembers mánadar, nádir høfninni, lagdir af þér vopn herfarar þinnar hér, og geckst inn dyrd þíns Herra fyrir sælann, sáluhjálplegann dauda, og þanninn feckst þína hjartans ósk, þína glødu von fyllta, eptir ad þú lengi ad undanførnu kénnt hafdir daudans fyriboda, lengst af nærstlidid misseri fundid til sárra sjúkdóms þjáníngu

ínga í þínum líkama, sem lagdu þig til fulls, fyrir rúmum mánudi, í banasængina; eptir ad þú, til styrkingar þinni sálu, medtekid hafdir Jesú Krists endurminníngar máltíd, og eptir ad þú, med vongladri þolinmædi, ad hans dæmi, búist hafdir vid þinni burtför, vid endurlausn þíns líkama, vid æskilegum strídslokum.

Já, almenníngs rómur allra, er þecktu Helgu sálugu Gudmundsdóttur, veit eg ecki betur, enn sanni medur mér, ad hún bardist gódri baráttu í sínu standi, heidradi sína stétt, rækti sómasamlega sitt kall og sínar skyldur, verdsladi vandlega sínu pundi; ad hún var gód og vöndud manneskja; trúr, verdugur, elskuríkur ektamaki; þrifin, reglu- og stjórnsöm húsmódir; ræktarsöm, nákvæm, dygdaudug módir; gódgjerdasöm, hjartagód vid þurfandi; greind, skilrík, tillagagód heidurskona í því, sem til hennar kom; og ad alþýdu rómur hafi hafi satt ad mæla í þessu, er votturinn hennar enn nú lifandi börn, á hvörjum hún hefir eptirskilid sinna dygda og mannkosta dæmi, sidprýdis, hæversku og gódrar mönnunar dæmi, ad því leiti sem væntast má í þeirra standi. Fyrir utan þetta, sem þó allt og hvört um sig útheimtir erfidi, árvekni, stríd, stedugleyndi, umönnun, hafdi hún ad reyna margvíslegt mótlæti og baráttu, sem einna hellst nidurbraut hennar fjør og krapta, einkum þá hún

svip-

svíplega sjá varð á bak síns ástfólgna ektamanns og 2gja sona, efnilegustu mannsefna, allt í einu. Æ! þetta grátlega rauna áfall einsingis, þó ecki hefði annað verið, mátti þó sverfa að lúðum kroptum, veikja hugann og heimta hana hvörn dag úr því til stríðs, til þolgæðis, til að niðursá í tárum, nú á hennar síðustu árum, svo það mátti segjast, að stríðið orðið hefði henni því stríðara, sem hennar kraptar, að vonum, rénuðu að mæta því, að heja það.

Sé Mósis sorgar-saungur yfir manneskjunnar lífdaga-skeiði sannur, staðfesti dagleg reynsla það með honum: að þegar líf vort hefir verið sem kostulegast, sé það þó eckert annað enn einber mæða og erviði; hvað má þá ecki segjast um allt það, sem Helga sáluga líða hafði í 62 ár, í ektastandi, í bússtjórn opt við lítil efni, í umönnun og forsorgun margra barna, og nú síðast í sorglegu eckjustandi, hvað má það ecki hafa verið mæðu- og rauna- og erviðis fullt? því má eptir öllum líkum nærri géta; og nú, þá allt þetta var loks á enda, þá erviðinu, bróanum, hugrauninum létti, en hvíldin var í nánd, sá tíminn, á hvörjum hún sjá fengi aptur og samfagna sínum lengi þráða ektakjærasta og börnum, sem undan henni komnir eru inn á höfnina, og hvað mest var verdt og henni gleðiríkast, sé

stund-

stundin var fyrir hendi, er til fulls sameinadi hana hennar sálar vin og unnusta, hennar Lausnara Jesú, og Gudi hennar Skapara, sem í lífinu haldid hafdi í hend med henni, styrkt hana í strídinu, og verid hennar hjartans traust og athvarf í øllum mannraunum ꝛc! hvad sæla má hún þá ecki hafa prísad sig med Postulans ordum og hugarfari: Gudi minum sé lof! nú hef eg, fyrir hans nád, gódri baráttu barist, hlaup mitt fullkomnad, og, þad sem mestu vardar, trúnni haldid, nú hédanaf er mér viss kóróna réttlætisins, viss hvild í høndum Drottins, hvar mig framar engin pína snerta mun.

Þessir þánkar vóru þad víst, sem voktu fyrir vorrar Frelsudu Sálu í daudanum, og sem eg lesid gat út af hennar rósama yfirbragdi, er eg, litilli stundu fyrir hennar andlát, sá hana, já, mér til lærdóms sá, med hvílíkri hugar rósemi sannkristinn madur kann ad deya, ad gánga hid mikilvægasta spor á mannestjunnar tilveru tíd, frá stundlega tímanum inní eilífdina. Þannig fer sá einn í dáid, sem samvitskan ber þad vitni í daudanum: ad hann barist hafi gódri baráttu, hlaupid farsællega fullkomnad, trúnni haldid, því hann einn hefir Guds orda fyrirheit um sáluhjálplegann enda á øllum sínum þrautum, hann getur því verid viss um kórónu réttlætisins, sem honum er

af

af náð Guðs, fyrir Lausnarans verðskulðun; heitin til endurgjalds í eilífu lífi.

O! Guði sé lof! sem þér, frelsaða Sál! hefir sigurinn gefið fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist; eilífar þackir séu honum, sem gaf þér árvekni, krapta, stöðuglyndi, þolgæði til þannig að berjast, þannig að lifa, líða og deya, að þú gatst fullviss verið, ecki einúngis um sigurkransinn í dauðanum, um trúarinnar verðlaun, eilíft líf, heldur og verðugann lofstýr á jörðunni, sem vera skal oss eptirlifandi ørfandi eptirbreytnis dæmi til sannra dygða og mannkosta. Hennar minníng haldist hjá oss í blessun, og hvetji oss til að lifa svo nytsømu og vøndudu líferni, sem hún, að oss megi að síðustu, eins og henni, í dauðanum vel vegna. Hennar sála hvílist nú í høndum Drottins, hvar eckert íllt snertir hana, en hennar andvana líkama er þegar værð búin í hans svefnherbergi grøfinni, fyrir Ydar tilstilli, sem nú erud reiðubúnir að veita honum þá síðustu þénustu.